ecke læted reisa sijna Kyrkiu med Ver-
alldarennar Nofmood nie fænijtre Nie-
goma Dijrd/helldur med Kirrd z Pøgn/
i hverre ad bijr Kraptureñ/ jæ Kraptur
Guds sa ed er i Breiskum mæktugur/og
yfervinnur Verolldena. Eñ giæt þess
Christeñ Madur/ad þad sem æskorter/
byriar med sama Nætte ad fylla/svo hun
sie øll af lijkum Kostum giør. Nun er
grundvølllud a þeim Steine/ sem upp-
byggendur hafa burtkastad/ eñ þo er
ordeñ ad Norne Nirningar/ Math: 21.
og morgum til Falls z Vpprisu i Jsra-
el/Luc. 2. Eige sijdst þegar hūn sette sitt
Andlit svo sem eirn Nellu-Stein fyrer
þeim/ er hañ sloou. Jferbyggingeñ
verdur Grundvellenum ad sambiooda/
svo hun falle þar vid: Nun mæ ei vera
af Leyr og Sande/svo hun i sundurbrot-
ne og hrynie strax sem vid heñe er sleig-
ed/ og skieme ba er fyrer verda/ eins og
Seneca um̄ Reidena talar/ ad hun sie
lijk þvi Nwse er hrapar/ hvert ed sund-
ur-molar allt þad er under þvi verdur/z

 fialff

siälft brotnar þad i eñ fleire Parta. Jeg veit ad margur þeinker/ ad ecke sie Dhult ad lijda Orietteñ i Heimenum fyrer Mañaña Illsku saker/ hver ed ma' sæleft Noogværd hiña kyrrlætu/ svo eirn Oriettur bijdur ødrum heim. Eg kañ z ecke añad ad seigia/ eñ þad leifelegt sie ad sækia med Løgum Riett siñ fyrer Christelegu Yfervallde/ eñ ef af bera kañ ad þu nærer hønum/ þa er betra ad ganga Riettlaus iñ i Himnarijke/eñ ad hrapa til Helvijtis med þañ Riett / er Madur took fram fyrer Hendur a Gude. Og þott ad Sverd Valldstioornar' eñ' kuñe ad ridga i Slidruñi/ þa vaker þo Guds Hefnd/ z hañs Sverd er nak' ed. Ef þu ætter strax ad deyia Christ' eñ Madur/ munder þu ecke øllum strax fyrergiefa? Eñ þu veitst ecke hvert þu muner yfer hid nærsta Augnablik kom' ast. z ef svo kañ til ad bera/ ad þier ver de ad skyndingu i burtu kipt/ og þu ei fundeñ klæddur Brwdkaups Klæde/ þa vara þig ad ei verde til þijn sagt: Vin'

ur/ hvar til komst þu iñ hijngad? Math. 22. Læted ei Soolena undergaanga ydar Reide/ seiger St: Paall Ephes. 4. Hvad miklu helldur ætti Meñ þa ad varast/ ad Dauðeñ hitte oss med illu Skape. Sa sem vill lækna Orietteñ med ødrum Oriette/ hañ er lijkur þeim / er þvær Skarn med Skarne / edur honum er hoggur framañ af Fætenum til þess/ ad Skoreñ fare þess betur. Svo gapa Meñ epter Hiegoma Dijrd þessa falls valltra Heims/ sem foolgeñ er i þvi/ ad sijnast øllum sterkare/ øllum meire/ og enda hvers Mañs Gixpu og Ogiæfu/ viliande helldur gierast Dioful sens Prælar i Heipndeñe/ eñ Christi Lærefvein ar i Þoleñmædeñe. O þu saklausa Lamb Guds/ sem hiñar Ogudlegu Verolldar Synder hefur saklaus fored/ þu sem erfidad hefur i añara Syndum og be- talad þad þu ecke ræntir/ skapa þu nijtt Hiarta i oss/ og gief oss nijañ vissañ Anda/ þu veist ad Þanckar vorer eru vonder i fra upphafe / Gen: 6. Og

hin fyrsta Spilling/ sem vier erfd hof-um epter Adam/ hefur svo bwed um sig i oss/ ad vier faum hene ecke wtrÿmt/ nema fyrer þin Anda. Fyrer þvi grat-bænum vier þig Bruñur allrar Giæsku og Noogvœrdar/ lat Miñing þÿns sak-lausa Dauda og vorra Synda/ er þig Rietlætañ kvaled hafa/deida i oss Of-stæke vors bañvæna Holds/og þegar ad Illska Natturuñar tekur ad hreifa sier af Andskotanum uppblæseñ/þa lat þitt blessada Epterdæme skÿna fyrer Augū vorum/og gief oss ad vier þeinkium til þeirra Orda/med hverium þu vor Meist are hefur lyktad þa blessudu Bæn/med hverre vier Daglega skrÿda eigum til Skarar Foota þiña/ nema þier fyrer-giefed hver ødrum ydar Misgiorder/ þa mun miñ himneske Fader ecke fyrer-giefa ydur ydar Synder/ Math: 6. Þessa bidium vier þiñ og vorn Himneska Fødur i Krapte þiñar Forþienustu/ Amen.

# PREDIKUN
wt af hinu
## Audru Orde Drottens JEsu Christi a Krossenum.

### Sañlega seige eg þier/ ad i Dag skallt þu vera med mier i Paradijs.

ÞAD er dyrmætt z verdugt Ord seiger St: Paall/ 1. Tim: 1. Ad JESus CHristur er komeñ i þeñañ Heim / synduga Meñ Saluhoolpna ad giøra/ a medal hverra eg em hiñ meste / eñ þar fyrer hefe eg Myskun hloted/ad hañ audsynde a mier allra helst Stærd siñar Myskunar/ til Epterdæmis þeim sem a hñ trwa mundu til eilijfs Lijfs. Med mikellre Ognan hefur hiñ vollduge Gud byrt sijna

wollduga Reide yfer Mañaña Bornū / þeim sem Fottroded hafa hañs Bodord og Skipaner. Sa sem heyrt hefur Strapp hiñar vantrwudu Veralldar. Sa sem les hverneñ Gud i Reide siñe brende upp Sodoma og Gomorra. Sa sem athugar hañs Hepnd yper Israel/ þa þeir mogludu a moote þeim er Moyses giørde þra sier til ad ranſaka Landed/ Num: 14. Hver sem miñest Strapp þeirra er samløgudu sig Midianitum i Schittim/ Num: 25. Hañ sem þeinker til þeirra er þreistudu Guds i Eorba/ og urdu þortærder af Høggormū. Hver sem þyter sier virder Anaudena i Babilon. Hver sem Jerusalems Eydeleggingu ihugar/ hañ skal med miklum Otta og Skielþingu jata þad/ ad hvern sem hañ þoraglar/ þañ vill hañ foragta/ 1. Sam: 2. Hvar uñ hañ sialþur vitnar/ Exod: 20. seigiande: Eg em Gud Drottefi/ sterkur Vandlætare / vitiande Ranglætes Fedraña a Sonuñū/ i þridiu æ þioordu Attkvisl þeirra sem mig hata:

ka. En þott hañ hafe ſvo opeñberad Møñunum ſitt ſtrainga Riettlæte / þa hefur hañ þo ecke læted ſig æn Vitn-esburdar ſkiftar miklu Myſkunſeme/ þvi ſeiger hañ ſkomu ſydar i ſama Capitu-la: Eñ giorande Myſkunſeme i þuſund Lidu/ þeim ſem mig elſka/og myn Bod-ord vardveita. Svo miteñ Mun gior-er hiñ Almattuge Gud Reideñar og Giæſkuñar/ Nefndareñar og Myſkun-ſemeñar/ ſvo ſem eru a mille fiogra og þuſund Lida. Þad er honum eigeilegt ad myſkuna/hitt ad hañ ſtraffar/framā kiemur af Þrivoſku Mañaña. Þetta ſeigeſt St: Paall hafa ſañad a ſialfum ſier/ þvi ſkomu fyrr i hinum ſama Ca-pitula jatar hañ ſyna Illſku og Vn-giædis Offtopa i giegn Gude/ a þeñañ Hatt: Eg ſem til forna var Gudlaſt-are/Offſookuare/Spottare/hefe Myſk-un odlaſt/ þvi eg giorde þad i Ovite af Trugirne/eñ Nad Drottenſ vors hef-ur yfergnæfft med Tru og Kiærleika/ſm̄ eru i Chriſto JEſu/ 1. Tim. 1. Leider

ſvo

ſvo øllum Riett-trwudum z Saññ-idran-
de Mañeſkium þyrer Siooner ſitt Dx-
me/ ad eingeñ ſkule ſier Guds Nꝍdar
orvænta/ hoerſu ſem hañ ſie hiñi verſtu
Syndum hladeñ/ þar Gud hafe ſier þar
fyrer myſkunad/ ad hañ yrde øllum ſem
a hañ trwa mundu til Jarteiknis um̃
Guds miklu Myſkun og Hiartgroona
Elſku. Nu þo ad þeſſe Bevijſing ſie
hm ægiætaſta/ er þeſſe Guds Madur
kuke til ad leida i þvi Efne/ er hañ ſkriꝼ
ar um̃/ og hellſt þeſſ vegna / ad hañs
Ræda var kriddud med audmiwkre Med-
kieñingu/ med ſañre Jdran/ med lijte-
lætu Hiartalage (þvi nema ſvo hefde
vered/ munde hañ ecke brwka ſijnar eig-
eñ Avirdingar til ad mikla þar med Gu-
ds Giæſku) þa vantar oſſ ecke þvilijk
Dæme/ bæde i Heilagre Skrift og añar
ſtadar/ þvi þoott Gud þecke beſt allra
Mañа Siñe og Hiortu/ þa ſkyllde þo
ſijnaſt þyrer Mañlegum Augum / ad
Aaron/ David/ Manaſſes/ Petur og
Maria heꝼdu ei miña opgiort vid Gud

eñ Páulus/þvi þeirra Synder voru med Vilia giørdar/og hafa þeir þo ecke siid ur Mynskun hloted. Vier þurfum ecke lengt epter Vitnum ad leita hier uñ. Hañ þolde Israels Synder i nockur hundrud Ar. Siiingum Nendeñe i vorn eigeñ Barm/ og skodum hvad litted vier høfum gott giort/ og hvad margt illa/ og þo hefur Guds Millda-Hond ecke burtkastad oss eñ þa. Þeinkium a þad/ hversu tiidt Gud hefur verndad oss midt i Syndunum/ og læted oss Oskadda a þeim somu Timum z Tidum/er vier høfum wtriett til hiña versku Glæpa z Gude til Mootþyckiu/og munum vier bræd-lega neidast til ad jata þad/ad svo mik-ed sem Himiniñ er Jørduñe hærre / svo miked yfergnæfer Guds Giæska hañs Reide/ yfer þeim/ sem eñ þa hafa ecke uppfyllt Mælingu Syndareñar. Eñ þo þessu sie nu svo vared/ þa kyñe Synd areñ ad leida i Huga sier : þott Gud ha-fe mig svo leinge lided/ þykest eg samt vita þad hañ mune mier reidur vera/þvi

hañ er Gud/ sem ecke þocknast Ogudlegt Athæþe/ þott hñ umbere Illsku mñna um Nrñd / og haþe þolad mier svo leinge margar Yþertrodslur/ þa er lijklegt ad hañ skriþe þær uppa Reikning/ sæ ed mæte miñe aumu Sælu i Domenum/ þa eg skal a hveriu Onñtu Orde Skil giøra. Þott Paulus hafe syndgast / þa heþur hañ þo heitt idrast. Petur gieck wt og griet beisklega. Maria þvode JEsu Fætur i sñnum Tærum. David lagde Kongs Tignena i Seck og Osku. Manasses griet sñnar Illgiørder med Harma-Kløgun ꝛ liet af ad syndga/ ꝛ aller haþa þesser Gude um længa Tñma þioonad/ eñ eg heþe þra Barndoome liþad Idrunarlaust/ og þott eg haþe a stundum sñnst þar vid/ þa heþur Idruneñ alldrei geinged mñnu Hiarta svo nærre/ ad eg hafe fra illu Athæfe aptur horþed/edur miñ seine Dagur haþe betre vered eñ sa fyrre/ svo ad Sooleñ / sem ad Kvollde nidur tañ yþer miñe Vondsku/ hafe yfer mier

riettlætare ad Morgne Dags upp apt-
ur runeð/ þykest þvi vita/ hvad sw Jd-
ran gillda mune i Guds Auglite: Kañ
skie eg hafe ei helldur længar Stunder
hier epter Gude ad þioona i endurnyun-
gu Lyfdagaña/ þar eg veit ecke nema a
þessare Stundu verde til myn sagt/ giør
Reikningskap þiñar Rædsmeñsku/ þyn
Sæla skal fra þier tekeñ verda. Sañ-
lega er þad ecke Olyklegt/ ad þesser
Þænkar meige fliwga þeim i Hug/ sem
allañ siñ Alldur hafa i Jllskuñe aled/z
kañ eg ecke ad seigia þad sie Ovarlega
hugsad/ þvi betra er ad Miñing Jll-
giørdaña þreynge nockud ad oss hier i
Rædeñe/ eñ ad hun kvelie eilyflega i
Helvyte: Eda hvar fyrer skylldu Meñ
liwga ad sialfum sier/ edur Sæl sijna a
Tælar draga/ nie vænta þar Fridar/
hvar eingeñ er. Lyklegt er og ad sa sier
kemur þetta Hugarfar/ hañ mune skirr-
ast vid ad siala leinge med fullum Segl-
um undañ Rad-Byre Holldlegrar Fyss-
ne/ ef skie mætte ad honum munde þa
miñsk-

mäſtum Vonum vater um̄ koll ſteypa. Eñ þo ad ſlÿker Þænkar gagne ei allꝛ lÿted til Apturhvarþs fra Syndunum/ og til ad verka Sæluhialp ſÿna med Vgg og Otta/ þa er ſamt vel adgiætanꝛ de/ ad þeir of þÿnge ecke veſølu Syndꝛ arans Hiarta/ ſvo ad hañ þar fyrer falle i Orvænting og Vantrw/ og verꝛ de ſvo hin ſeirne Villañ argare hiñe fyrre. A moote þeirre bañvænu Hugꝛ ſÿke/ er Cains Sælu mirdte/ er Achiꝛ tophel kyrkte/ er Judam iiet i midiu i ſundur i tvo Hlute breſta/ er hin kroptꝛ ugaſta Lækning i þvi ødru Orde JEſu vors Endurlauſnara/ er hañ talade a Kroſſenum til Ræningians/ hvert vier vilium oſſ nu þyrer Hendur taka / og af þvi alleina yþervega vors Endurlauſnꝛ ara Fødurlega Giæſku i þvi/ ad þyrerꝛ giefa Syndernar/ og leida Mañeſkiuna til Himnarÿkes.

Esse Malsgrein Vors Endurlausnara / hlioodar hañeñ Børn G. E: Sañlega seige eg þier/ ad i Dag skallt þu vera med mier i Paradijs.

A M E N stendur i Textanum/ þ þydest Vissulega/ og er Svardage hiñs Almattuga Guds/ þegar hañ vill vid nockurn Hlut miklar Vidløgur hafa. Vel mætte Ræningeñ trwa/ þo ei hefde JEsus svared/ eñ fyrer þvi ad hañ visse/ ad hañs Trw munde i þeim sijdustu Andarslitrum kuña brædlega ad veikiast/ og hañ mætte þykia Olijklegur nockrum til Fullkijngis / er siælfur var forlæteñ og Hialparlaus/ af þvi Ræningianum var svo miklu heited/ fordæmdum Mañe Himnarijke/ Krossfestum Paradijs/ Illvirkianum eilijfu Lijfe/ og þeim einkis Von ætte/ nema eilijfra Pijsla i Helvijte / æfeñleg Vistarvera

 med

med Gude/ þa vill hañ ecke þañ lijtilog
andě Norkveik wtsłockva/ Esa: 42.
sem sialþur uppłijser alla Meñ/ sem ko-
ma i Heim þeñañ/ Joh: 1. og ecke bræ-
kadañ Reyr fyrer Augum sier i sundur
brotna lata/ sem sialþur var med Reyr-
Legg i sitt Hoþud sleigeñ/ Marc: 15.
Sia hier Fodurlega Giæsku þijns End-
urlausnara Christeñ Madur: Hañ var
yþergiefeñ af øllum sijnum Viñū/ samt
yfergaf hañ ecke siñ Ovin: Hañ var
þorlateñ aþ sijnum Fødur/ samt þorliet
hañ ecke eirn Ræningia: Hañ gaþ sig
ecke ad Brixle og Hædungum hiña
Ogudlegu Gidinga/ ei Kiefkne Stridds-
Mañaña: Hañ þagde vid Gudløstun
hins Ogudlega Ræningia/ eñ þesse þieck
ecke fyrre wttalad aþ Muñenum / þad
hañ beidde um/ helldur eñ JEsu mysk-
unar Jdur hrærdust i hønum til Med-
aumkunar/ þar hañ hieck a Krossenum.
Hvad mun hañ giøra/ þar hañ situr i
Dijrdeñe/ er svo var myskunsamur/ midt
i Kvøleñe? Hversu mun hañ kieña i
Brioostē

Brioste um̃ þa/ er hañs vegna Krossen̄ bera/ og Oþsookner lijda/ er svo var nærd ugur hinū Oþræga Stigamañe: Hvad heitt nun hañ elska / þar hañ er uppshaþeñ a siñ Tignar Stol til Fødursens hægre Handar/ sem svo heitt elskade Krossfestur a millum tveggia Spillvirkta? Þesse er sw breñande Elskañ/ med hverre JEsus oss elskade/ þa vier vorū hañs Ovinet/ Rom: 5. Nun kuñe ecke ad dyliast midt i Kvølunum; Hin sama Elska/ sem dro hañ upp a Krossens Galga/ færde þesse Lijknar Ord wt af hañs Hiarta. Þad hñ elskade sijna Vine/ þad hañ tæradest vid Grøf Lazari/ þad hñ þyrergaf Mariu/ sem hñs Fæt ur þvode/ þad hañ leit til Peturs/ er hñ haþde hønum afneitad/ þad var stoort Furduverk hñs mikellrar Elsku til Mañ aña Barna: Eñ hveriu Nafne skal þetta neþna/ ad hañ midt i Kvølunum/ midt i Sælar z Lijþs sterkasta Oþþode/ liet sier svo mikelega hugad vera um̃ Sæl eins Illrædis Mañs/ þa hañ var

 midt

midt i Nelvüte/ frelsade hann Sal hans fra Nelvüte: Þegar hn̄ bar allan̄ Þwn ga Guds Reide/ liette hann Guds Reide af ødrum/ og þa han̄ ecke vard Bæn' heyrdur þyrer sialþan̄ sig/ Bænheyrde hn̄ þessan̄ Syndara. Svo sannarlega s̄ eg liþe/seiger Drotten̄/ vil eg ecke syndugs Mans Dauda/ Ezech: 33. Þad er hn̄s dijrasta Sære. Gud kan̄ ecke ad deyia/ en̄ JEsus/ þott han̄ dæje i Holldenu/ sijnde þad øllum Heime/ øllum Sann̄id' rande/øllum Villuræfande/ øllū Harm þrwngnum/ øllum Freistudum / øllum Stoorbrota' Møn̄um/ ad hn̄ hefde ecke þocknan a Dauda Syndarans/hellbur villde siælþur i Daudan̄ ganga/ svo ad hin̄ mætte liþa. Hvad er þa Mad' uren̄ þess min̄ Herra z Gud/ ad þu min̄' est han̄s svo/ edur Man̄sens Sonur/ad þu vitiar hn̄s i svo diwpum Myskunar Jdrum/Ps: 8. Hvad var þesse Jllvirke/ ad þu skyllder hønū svo myskuna? Tidt heþur þu min̄ Herra leingur dulest þyrer Astvinum þijnum/þu tokst ecke svo blidt

þin̄s

þiñe Elſkulegu Moodur þordum i Ca-
na/ſvo ſem þeſſum/Þu lietſt hina Can-
verſku þriſvar hroopa/ Þu myſtader
Konungs-Mañeñ uñ ſijna Vantru /
Þu ſvaþſt þegar þijner elſkulegu Lære-
ſveinar tooku til ad forganga / eñ vid
eina Andvarpan þeſſa Syndara / var
þitt Myſkunar Eyra ſvo punt / ad þu
ſvarader honum ſvo þliott/ ſem hñ kuñe
ad tala. Þijnar Hendur voru a Kroſſ-
enum þaſtar/þijnar Fætur a Tried nid-
ur negldar/ allur Lijkameñ var Mæti-
þrota: Þu hafder noog ad giøra / ad
troda alleina Vijnpreſſuna: Þad bleſſ-
ada Balſams Trie var hier ad læta ſig
ſæra til Lækningar þeim er þad hiuggu/
eñ þitt Hiarta var eñ þa ecke i giegnum
ſtunged/ þad gat ecke æn Myſkunar ve-
red/ þær bleſſudu Varernar/ a hveriar
Nadeñ er wthellt/ Pſ: 45. hoþdu eñ
þa ecke teked hin ſijdurſtu Andvorp/þær
mættu ecke Iðjulauſar vera/ helldur til
þeſſ ad allt giørder þu vel þra hinu
fyrſta til þeſſ ſijdſta/ urdu þær þeñañ

Befæling i hañs ſijdurſtu Neyd ad hugga. Hvar fyrer miñ Herra? Vppa þ/ad eingum tapader þu af þeim þier giefner voru/ uppa þad þu bænheyrder medañ Syndareñ være ad bidia/ uppa þad þu ſañader hier þijn bleſſud Ord/ Ad meire Glede være i Himnenum yfer einum ſyndugũ/ſem Jdran giører/hellður eñ yfer niju og nijutiju Riettlaatum/ Luc: 15. O Herra JEſu/ hier hefe eg z aller Stoor-Synduger eina Hugg- un/ ſem eingeñ ſkal af oſſ taka. A Døgum ſiñar Holldsviſtar took JE- ſus Tollheimtu-Meñ og Berſynduga til Naadar/ og baud þeim til ſijn ad ko- ma/ þad þeir ſkylldu lifa i Endurnijun- gu Lijfdagaña/eñ midt i ſijnum Dauda/ hefur hañ einum Daudvona Syndara myſkunad / þeim til Huggunar / ſem Samvitſkañ midt i Daudanum klagar. Miked hefde JEſus epterſkiled/ hefde hañ þetta allra dæſamlegaſta Myſkun- arverk Ogiørt læted / þvi eg voga ad ſeigia/ ad einſamallt þetta hefur fleire

Stur-

Sturladar/ og i hinum sijdustu Fiorbrot um yþergieþnar Mañeskiur til Lijþsens leidt/ helldur eñ mørg øñur hñs Krapta-verk: Eñ seiged mier/ Børn mijn/ hver mun haþa skoted þessum Saka-Mañe svoddañ Þanka i Hug? Jeg veit þier vilied seigia: Guds heilagur Ande/ sem satt er/ þvi an hañs kañ eingeñ JEsum DRotteñ ad kalla / sem Paulus vottar/ 1. Cor. 12. Þo þykest eg vita/ ad sa øfluge Guds Kraptur haþe bwed i þeim Ordum/ er JEsus honum aheyr-ande nockru adur talade. Vm̃ JEsu Sakleise heþur hañ twijllaust a-heyrsla orded i Fangelsenu/ þvi hversu mætte hañ añars seigia? Ad þesse heþ-de aungva Søk. Hañ var og wtleiddur med Christo/ heþur þvi vel mætt hey-ra þaug agiætu Ord/ er Herrañ talade til Kveñaña/ sem honum grætande eþt-erfylgdu: Eñ allra hellst haþa honum mætt til Hiarta ganga þaug Ord/ er JEsus beidde med siñ Himneska Fod-ur þyrer sijnum Ovinum/ svo ad ecke er

Ollyklegt/ pad hañ hafe mætti peinkia med sier/ hverium er pesse lykur? Sum er græta yþer hønum/ svo sem Moodér grætur yþer sijnum einasta Syne. Landsdoomareñ heþur sagt/ pad hañ þinde aungva Dauda-Sok med hønum. Ad-rer spotta hañ og hæda / og tilleggia høñu pær Nædungar/sem eingis Mañs Hiarta kyñe an Stygdar ad pola / pa þyrre huggar hañ/og kieñer peim/hvad hier mune a epter fylgia: Hañ gleimer siñe Anaud/ eñ er æhyggiusamur um̃ peirra Velþerd: Fyrer peim sk̃dare bid-ur hañ / og bidur siñ Fodur/ hvern hañ sagt heþur Gud ad vera/bidur um̃ Fyr-ergiefning Syndaña. Eg sem ad med-tek hvad myñ Verk eru/ eg er ecke svo syndur s hñ/eñ hñ s øllu verr er wtleik-eñ eñ eg/ og Landsdomareñ heþur po saklausañ kallad/hañ bidur pyrer peim/ er hañ sṽvirda/ bidur Fyrergiefningar a peirra Syndunum/ er peir nu a moote hønum giøra. Nia pessum Mañe/ er æn efa nockud Gudlegt/ og hañ mæ

Guds

Guds Sonur vera/ sem under sitt Ando-
lat bidur sin Fodur um Fyrergiepningu
anarlegra Synda/ þvi Gud alleina/ og
eingen anar kan Syndernar ad fyrer-
giefa. Eg sem lijd fyrer Illgiorder
mijnar maklegan Dauda/ eg sem ecke
hefe ad treysta Goodverkum mijnum/ sem
eingen eru/ eg vil og preisa þessa: fyrst
han bidur fyrer Syndugum/ þa mun hn
eirnen kuna mijnar Synder ad afbidia/
Fyrst hn fridar fyrer þa/ sem hn Kross
festa/ spotta og hæda/ þa mun han ecke
mier/ sem er i samre Fordæmingu med
honum afundeñ verda. Fyrst han bidur
þeim Vægdar/ sem han alldrei þar um
beiddu/ þa mun hn mier vægia/ s hn vil
nu af Hiarta þar um bidia. Nockud
svoddan mun Vesalingur þesse hafa
giort sier i Lund/ og hns Von liet IE-
sus ecke til Skamar verda. Han veitte
honum meira/ en hin þorde ad bidia:
Han beidde einasta ad minast sijn/ en
IEsus lofade honum Vist med sier.
Hvad kune han honum meira ad veita?

Hvar skyllde hañ vera an JEsu / svo honum vel lide/hvar kuñe hñ med JE. su ad vera/ svo honum illa lide? Þess sem hañ beiddest af sijnum Himneska Fodur til Handa sijnum Lærisveinum/er med honum bored hofdu Hita og Þwn ga Dagsens/ seigiande: Eg bid þig Fader/ad hvar eg er/þar sieu þeir eirn. eñ er þu hefur mier giefed/ Joh: 17. þad sama veitte hañ þessum Stoorbrota Mañe / er varla hafde eina Stund Dags erfidad. Miñ Herra JEsu / hvad fæwiss er Madureñ til þess/ ad hañ skule Guds Raad þeckia? Og hvad miked skilur Guds Doma og Mañana? Þad sem hañs Kvalarar ætludu honū til mestu Nædungar/ þad er orded honū til eilijfrar Vegsemdar: Þeir heingdu hañ upp medal tveggia Ræningia: Eñ þu sem ecke rænter Guds Mynd/ eñ be talader þo/ hvad þu rænter ecke / auð sijnder þar a Ræningianū/ad þu Magt hefder til ad fyrergiefa Syndernar. Þeir bundu hañ ofañstijga af Krossenū/ til

til ad auglijsa þ hn̄ Guds Sonur væ-
re/en̄ han̄ auglijste þeim/ sem vidþurfte/
ad hn̄ hefde Magt a Jordu til ad fyr-
ergiefa Syndernar fyrer þ dijra Lausn-
argialld/ er han̄ gallt Gude a Krossens
Alltare/ fyrer allar Veralldaren̄ar Syn
der. Hver vill nu framar örvænta
sier Guds Nadar/ sm̄ heyrer þesse Ord?
Næningen̄ heyrde hvad JEsus bad fyr
er þeim/ er han̄ Krossfestu/ og hvad hn̄
fyrer Kvin̄unum talade/ þad hefur æn
efa snwed honum a Guds Veg/ z dreig
ed han̄ til ad bidia sier Myskunar af
honum/ er han̄ heyrde ad var svo mysk-
unarrijkur. En̄ þu Christen̄ Madur
hefur hvertveggia þetta heyrt/ z Næn-
ingians Dæme þar ad auk/ ad eg tale
ecke um̄ mörg öñur fleire. Hvar fyr
er skyllder þu þa efast um̄ Guds mikla
Myskunseme? Þijnar Synder eru þier
opþwngar ordnar/ gior þær ei þijngre
med Örvæntingu Guds Nadar. Næn-
ingen̄ hlaut Myskun/ þvi han̄ vonade/
Judas vard burtreken̄/ af þvi han̄ ör-
vænte-

vænte: Jeg veit ecke hver Munur vered hefde Judæ Syndar og Peturs / hefde ei þesse trwad/ eñ hiñ orvænt/ þad skil-de þa mest/ ad Petur gieck wt og griet beisklega / Judas gieck wt og heingde sialfañ sig. Þijnar Synder eru þijnu Hiarta ofur þwng Byrde/ eñ Gud hef-ur heñe uppa Soneñ kastad/ þvi sañ-lega bar hañ vorar Synder/ seiger Esa. Cap. 53. Þijnar Synder angra þig svo miøg/ ad þu hefur ecke Frid i þijnū Beinum / hañs Bein eru og i sundur glidnud/ og hañs Mættur uppþornadur sem ofñ ur Skurm: Þær smellta þitt Hiarta/ Hañs Hiarta er eirneñ brææd-nad/ sem añad Vax: Þijn Sæla er Droleg i þier Syndaña vegna/ Hañs Sæla er og hrygg ordeñ allt i Daudañ: Þu hefur syndgast optlega / JEsus bidur fyrer þier Daglætañlega: Þu hefur drijgt optlega sømu Synder/ JE-sus er þo Forlijkun fyrer allrar Veralld-areñar Synder/ 1. Joh. 2. Svo opt þu Idrast Syndaña a Jørduñe/ svo opt

verdur

verdur hañ Fornfærdur fyrer Syndena i Himnenum: Þu hefur Syndgaſt allt i Daudaň/ JEſus vard hlydeñ Fødurnum allt til Daudans/ Phil. 2. Þu kañt ecke framar Gott ad giøra: Eñ þo þu kyñer/ munde þad þig hoolpeñ giøra? þiærre ſie þvi/ helldur Blood JEſu/ ſm̃ hreinſar þig aþ øllum þ̃ynum Syndũ. Þier þyker Olyklegt/ ad Gud fyrergiefe þeim a deyianda Deige/ ſem alla Daga illa liþde/eñ hañ ſeiger þo ſialþur. Gudleyſe hiñs Oguglega ſkal ecke ſkada hañ a hverium hellſt Deige hañ ſnyr ſier fra ſ ynu Ogudlegu Athæþe/ Ezech: 18. Þ ynar Synder yþergnæfa añarra Maña Synder/eñ þo yþergnæþ er Nadeñ miklu þramar/Rom: 5. Synden kañ alldrei ad verda ſvo ſtoor/ ad Nad Guds med Truñe medteken / ſie ecke ſtærre: Alldrei ſvo mørg/ad Fiølde Myſkunſemdaña ſie eige meire. Þu ſynd gaſt a hveriu Augnablike/ hañs Nad er þo þerſk og ny a hverium Morgne: Þ ynar Synder eru ſvo margar / ſem

Sandur

Sandur a Siafarbotne/ eñ hũs Myst
un uppfyller bæde Himen og Jørd/ þvi
er hun eñ þa stærre: Þar fyrer verdur
þu alldrei svo fliootur ad Idrast/ad hañ
verde ecke eins fliootur til ad forlata.
Sa sem meir hatar Syndena/ hañ vill
hana helldur afma. Nu kañ Gude eck-
ert svo gagnstædt ad vera/sem Syndeñ/
og hun er þad einasta/ sem hønum illa
lijkar/ þvi skallt þu full øruggur þess
vera/ ad þegar þu hefur feinged Leida
til heñar fyrer Idranena/ þa mun hañ
fliootur verda til ad afma hana fyrer
Forþienustuna. Hvad skulum vier nu
hier til seigia? Skulum vier þa i Synd-
unum framveigis blijfa/ svo ad Nadeñ
yfergnæfe? Fiare sie þvi/ Rom: 6.
Gud forbioode þad/ ad eg skyllde nock-
rum telia þa Tru/ad hañ meige uggar-
laus lifa/ af þvi Guds Nad er mikel.
JEsus er ad søñu komeñ i þeñañ Heim
synduga Meñ Sæluhoolpna ad giøra/
1. Tim: 1. Eñ ecke til þess/ad þeir skule
syndga: til kalla synduga/eñ ecke Riett-
lata

læka til Jdranar/ Math: 9. eñ ecke til þess/ ad þeir skule liᵭ sijna Timu Synd eñe til Ibꝛdar/ pra eiñe Ranglætingu til añarar: til ad uppfylla Løgmaled/ eñ ecke ad upplepsa/ Math: 5. Stoor Munur er þess/ ad vera viss um̄ Kvittun Syndaña pyrer Christi Forþienustu/ z hiñs añars ad porakta Rijkdom Guds lꝛanglundar Gieds / og athuga ecke ad Guds Þoleñmæde leider til Jdranar/ safnande sier svo Reide a Deige Reideñar og Guds Riettlætes Dooms/ Rom: 2. Hver ert þu sem þeinker ad alltijd sie noogur Tijme til Jdranar? Þu villt ad Morgne Jdrast/ eñ veitst ecke hvert þu muner sia Morgundageñ. Gud hefur ad søñu heited ad vera þier Nꝛdugur a hveriū þeim Tijma/ sem þu snijr þier til hañs af øllu Hiarta/ eñ þvi hefur hañ ecke lopad/ ad þvi fresta meige þar til þier gott þyker: Þu veitst ecke nær Basunañ lætur odrum Tꝛtum/ z sagt verdur: Þu Dare / a þessarre Nottu skal þijn Sal pra þier tekeñ verda/ Luc.

12. Eda hun kvedur vid i Skÿum Nimens med þessu Hlioode: Kÿsed upp pier Daudu z komed til Doomsens. J Dag/ i Dag/a medañ þu heyrer hñs Roddu/ þa forherd ecke þitt Hiarta/ Ps: 95. Og ef þu þusundsiñum syndgar/þa lææt þig þad þusundsiñum angra/ og þeink ecke svo med þier/ ad þu vilier eitt siñ fyrer allar Synder Jdran giora / þad være ad bruka Raad Guds fyrer Skalka Skiool/ og ad Foottroda Sættmaalans Blood/ med hveriu Syndareñ er endurkeyptur/ Heb: 10. Hañ hefur Jdran/ og sijdañ Syndaña Fyrergiefning i siñu Nafne predika lææted/ eñ ecke Undañdrætt z Toomlæte. Þott Ræningeñ snereft seint/ þa snereft hñ þo samstundis/ s hñ( i þ siñ) kalladur var: Þott þu ætler þier mune leingre Alldur skapadur/ þa gior slijkt hid sama/ ef þu villt deyia Riettlaatra Dauda. Skioot ecke a frest Jdran þiñe/ þvi hañ sem lofade Synd aranum Myskuneñe/ hañ hefur þo ecke lofad/ ad Myskunar-Tijmeñ skule til

Morg-

Morguns vara. Ep margur hefde hareſt i Mañhættu einhverre/ eñ hæeiner afkomeſt / villder þu þar a epter hára? Eingeñ Heilvita munde giora ꝥ ſitt Ráð. Miklu ſijdur ætter þu med Oþtrauſte z Hyrdulreiſe ad forlæta þig uppa þa Guds Náð/er þu hefur leinge forakrad og under Footum troded/jafnvel þo hañs Duñtræðeleg Giæſka hafe ſumum apturſnwed i ſiælfum Andarſlitrunum/ þvi Gud hefur alldrei ſijku heited/ og JEſu Forþienuſta er til alls añars ætlud/ eñ ad þiena Dioflenum/ i Trauſte heñar. Ad ſoñu er Sonur Guds i Heimeñ komeñ/til ad kalla ſynduga/ eñ ecke Riettlæta til Jdranar/ſvo ſem ædur er ſagt: Eñ þeir einer munu Køllunareñar Not hafa/ ſem idraſt vilia/af þvi hañ hefur til Jdranar kallad/ og ecke til Illgirne. Seig mier þu ſem meinar ad Chriſtur mune frida fyrer þig med ſiñe Forþienan i Himnenum a medañ þu dyrkar Andſkotañ i þijnū Limum. Hvad giorer þu af Chriſte?

mun Hañ hafa nidurbroted Helvijtaña Port/til þess ad uppbyggia Dioful∫ens Rijke? Sañlega er Hañ ecke þar til i Daudañ ∫elldur/ ad vier ∫kulum i Synd-eñe lifa/Helldur lifa eilijflega med Høn um. Guds Reide af Himnum open-berast yfer allt Ogudlegt Athæfe og Ranglæte Mañaña/ ∫eiger St. Paall/ Rom: 1. Skyllde Hañ þa hafa reidst ∫ijnum eingietnum Syne til þess/ad vier ∫kylldum Ranglæted æfa? Fiærre tekur Paall þvi/Rom: 6. med þessum Ordū: Svo ∫kulud þier og hallda/ad þier ∫ialf-er ∫ieud dauder Syndeñe/ eñ lifed Gude fyrer JEsum Christū DRotteñ vorn: Þar fyrer rijke ecke Syndeñ i ydar daud legum Lijkama/ ad þier hlijded Heñe i Girndum Heñar/og limed ecke Limu yd-ar til Verkfæra Syndeñe. Veit eg ad aller þykiast þetta vita/ og þad ∫ie fyrer Vitsirringa ad ætla Gud mune hafa endurkeypt oss Andskotanum til Þieonustu/ eñ þvi leggur þa ecke hiñ Agiarne af ad ∫tela / hiñ Heiptræke

Folkkuna/ hiñ Bakmæluge Eigena/ hiñ Ohlydne ad porsma Yferbodara og Foreldra/ hiñ Lostagiarne ad hlaupa epter añars Mañs eigeñ Konu. Jeg tala ecke uñ hvad eirn kañ ad henda/ þott þad sie noogu Jllt/ eñ Fiølde Mañs æpter sierhvad af þessu/ sem hñ er hneigd ur til/ eins og añad Handverk / leggst nidur med slijkre Ahyggiu a Kvølldum/ og stendur upp til ad premia þ a Morgna. Og hvad þæer eru þeir/ sem giefa sagt/ ad þeir hafe wistunged þad Augad/ sem hneixlar? Eñ hvad velldur þessu? Nema Meñ taka opmiked Trau stakak vid Gud/ sem eg er þo hrædbur uñ/ ad Þioofnadur dæmest a hinu sijdasta Allsheriar Þijnge/ og Meñ reida sig þar uppa/ ad þeir mune þa Tcomstund til ad idrast/ ædur eñ þeir þara i burtu hiedañ: Svo giøra Meñ Gud nædugañ ad aungvum Gude og hañs Mijskunseme ad Barna Spile / eins z hañs Riettlæte sie hønū ecke jafnsknlle/ og ad Lækning Syndareñar eige ad vera

Orsøk til heñar. Svo sem Gud seiger
um̃ Juda/Jer: 2. Svo geingur þad til
þyter morgum þeim / er Muñchristner
alleina eru. A Olucku Tijmanum seig-
ia þeir/ rijs upp og hialpa oss/ eñ hañ
vill svara/ hvar eru þa þijner Guder/
er þu heþur giort þier? Stande þeir
upp a Tijma þiñar Olucku/ og hialpe
þier eþ þeir eru til. Eins vilia aller
sættast vid Gud/ þegar dregur ad hiñe
hordu Daudans Tijd/ eñ þad er under
Hæleñ lagt/ hvert þa verdur Toomstund
til margra um̃sviþa/ er og all-lijklegt/
ad honum mune ecke sijñt um̃ ad idrast/
sem alldrei visse hvad Idran var/ fyrr
eñ þar er komed: Og þyrst þessu Eþne
er þañ Veg hattad/ þa er einsætt ad
dempa upptøk Syndareñar/ og læra ad
þyrerkoma Dreka Vnganum i Bælenu
ædur eñ hañ er þleygur ordeñ/ svo ad
aþ illre Hugsun ei tendrest Girndeñ /
Girndeñ þæde Samþycked/ aþ Sam-
þyckenu framkome Verked/ aþ Verk-
enu fylge Vaneñ/ aþ Vananum þroo-
est

est Forherdingeñ / af Forherdinguñe
o'farest Orvæntingeñ/ af Orvæntingu-
uñe vaxe Fordæmingeñ/ af Fordæming-
uñe kveikne hiñ eilijfe Elldur/ sem alld-
rei mun slockna/ og sa Ormur er alldrei
mun deyia. O Herra JEsu Christe/
þu sem i Heimeñ ert komeñ / ſynduga
Meñ Saluhoolpna ad giøra. Kieñ þu
oſſ a medañ þar ſeigeſt eñ þa/ J Dag/
medañ Nadar-Tijmeñ yþerſtendur /
medañ Sool Riettlætesens er oſſ ecke
undergeingeñ/ ad verka Saluhialp vo-
ra med Ugg og Otta / og lat oſſ ecke
med Oþtrauſte þiñar Nadar gleyma
Skylldu vorre i Framþerdeſens Betrun
og Endurnijungu Lijþdagaña/ og þegar
vier fra Heime þeſſum wtleidder verdū
til ad medtaka hvad vor Verk eru/ ſem
eru Verdlaun Syndareñar/ þa uñ oſſ ad
vera þar ſem þu ert i hiñe Himneſku
Paradijs/ og þig þar eilijþlega ad loþa
og prijſa med Fodur og Heilogum An-
da/ A M E N.

# PREDJKUN
wt af hinu
## Pridia Orde Drottens JEsu Christi a Krossenum.

Pa ed JEsus leit nu sijna Moodur/ og þañ Læresvein standa þar hia/ hvern hañ elsk ade/ seiger hañ til siñar Mood ur/ Kona sia þu/ þar er þiñ Sonur. Þar epter seiger hañ til Læresveinsens / sia þu / þad er þijn Mooder.



Aug sijdustu Ord Mañ sens/ er hañ talar und er siñ Dauda / plaga oss giarnañ Miñisstæd ad vera/ sierdeiles þra/ er oss eru af Hiarta

kiærer/

kiærer. Og þa vier kuñum ei leingur þeirra Nalægdar ad nioota/ þa pløgum vier ad læta oss vera þeirra sijdasta Vil ia hugþastañ. Þess gietur St: Pall/ Gal: 3. Ad eingeñ forakte Mañsens Testament, ef þad er samþykt / edur legge þar nockud til. Hvad skulū vier hier til seigia Børn Guds Elskuleg. Þa vier yþervegū JEsu Christi Guds Eingietens Sonar græatlegañ / eñ oss þo reyndar gledelegañ Vidskilnad vid þeñañ Heim/ hversu þad/ ad hñ giorde hid nyia Testamentum i sijnu Bloode/ Luc: 22. þa hañ gaf sijnum Læresvein- um Holld sitt ad eta / og sitt allra helg- asta Blod ad drecka. Eckert Testament skiede a þeim Døgū fyrer utañ Foorn- færingu/ og eingeñ Fyrergiefning utañ Blods wthellingar/seiger Paulus Heb. 9. Og þar ad auke hlijtur Daude þess/ er Testamented giører þar mille ad koo- ma/ ef þad duga skal/ seiger Paulus eñ aptur. Allt þetta hefur JEsus Guds Són uppfylldt i siñe Testamentisgiord.

Nañ iñsette þad heilaga Sacramentū ad Kvollde Dags/ hañ opprade sialf-um sier þar uppa Gude/ off til Foriij-kunar/strax Dageñ epter/ hñ gaf þeim sitt Blood ad drecka Kvolldenu fyrer/ hñ wthellte þvi a Krossens Galga til Synd aña Fyrergiefningar / Dageñ epter. Eitt Testament verdur ei stadfest/ ne-ma fyrer þess Dauda sem þad giører/ ad hønum lifanda kañ þad ecke Abl ad hafa: Þad liet Guds eingieteñ Sonur ei til vanta/ og lagde sialfur sijna Sæl fra sier/ Joh: 10. svo þad skyllde O-raskanlegt um̃ alla Æfe standa. Þad er ecke ad undra / þott Esajas Cap: 9. kalle hñ Vndrunarlegañ. Eingeñ hef-ur um̃ Æfe svo undarlegañ Sættmæla heyrt edur sied/ hñ er sialfur Nofund-ur Testamentesens/ hñ er Opp: Sætt-mælans/ hañs Blood er Forlijkuneñ/ & ad þvi svo nidurskipudu / geingur hañ sialfkrafa ad deyia. Þegar Moyses giørde hid gamla Testament i Guds Vm̃bode/ med øllum Jsrael/ þa las hñ upp fyrer þeim Løgmælsens Ord / og

took i Hendur Blood Kalfaña og Haf-
taña/ med Vatne og raudre Ullu og
med Isope/ og stokte þvi a Bookena og
allt Folked/ seigiande: Þetta er Blood
þess Testamentis/ sem Gud hefur bod-
ed ydur/ eirneñ a Tiallbudena og oll
Kier Þionustugiordareñar/ Exod. 24.
Eingeñ skyllde bad undra/ þo ecke kiæ-
me hier til Daude þess er Testamented
giorde/ þvi JEsu Daude var i Foorn-
aña Dauda fyrermyndadur/ hañs Blod
med þeirra Blode: þær kuñu aungvañ
fullkomeñ ad giora epter Samvitskuñe/
Heb: 9. Helldur var Syndeñ under Gu-
ds Þoleñmæde/ Rom: 3. allt þar til
Gud doo i Christo a Krossens Galga
til ad forlijka Heimeñ vid sialfañ sig/
þvi er hañ z Nafundur eins betra Testa
mentis/ Heb: 10. JEsus las upp fyr-
er sijnum Læresveinum ecke Ord Log-
mælsens/svo sem Moyses giorde/ helld-
ur Ord Evangelij i þeirre miklu Pre-
dikun / sem skrifud stendur i Johañis
Gudspialla Bokar 14. 15. 16. og 17.

Cap: Hañ took sier i Hond/ ecke Vxa aña nie Hafraña/ helldr sitt eiged Blod/ þa hañ took Kaleikeñ: ecke Vatned/ helldur wthellte af siñe Sijdu Vatne z Bloode/ ecke rauda Ullu/ helldur litade siñ Mottul i Vijnberia Bloode/ Gen: 49. Ecke Isop/ helldur var med Galle og Edike af Isope dryckiadur: Þessu sijnu Bloode hefur hañ stockt a Book Evangelij/ sem hefur allañ siñ Krapt af hañs Bloode/ z a allt Folked sem er endurkeypt med Guds eigeñ Bloode/ Act: 20. a Tialldbwdena/ sem er hñs al-bloodugur Lijkame/ og a Kier Pioon-ustugiordareñar/ sem eru hañs Pienarar i Ordenu/ og Radsmeñ hañs Leindardoma/ 1. Cor: 4. og aller hafa af hañs Fyllingu medteked/ Joh: 1. Og hefur svo hroopad z hroopa læted i Eyrum allrar Veralldar / þetta er nijtt Testamentum i mijnu Bloode: Og mæ þad hvers Mañs Muñur jata og medkieña/ ad eingeñ hefur edur gietur oss svo miked i Testamentis-Giof epter-

skiled.

skiled. Hañ hefur giefed oss sitt Hold til Fædu/ og sitt Blood til dryckiar/ sitt Lijf til Endurlausn"/ sijn Saar til Lækningar/ siñ Fadm til Gridastadar / siñ Kross til Erfterdæmis/ siñ Sveita til Hreinsunar / sijna Coronu til Hofudbwnings/sitt Hiarta til breñande Elsku merkis/ z sijn sijdusiu Ord og Andvorp til huggunar Erfterbreytingar og Fyrermyndar. Eñ svo sem þad/ad skoorer Hofdingiar giora tijdñ fyrst almeñelega Skipan uñ Rijkesens Erende/ hversu þeir vilie epter siñ Dag hallda lata/ og sijdañ Rædstofun sijns Hwss/ vid hina kiærustu Vine sijna og Þienara/eins z David/ er hñ hafde Stiornaneñe nidurskipad/liet hañ Son siñ Salomonem til sijn koma. Jacob kallade a deyianda Deige alla sijna Sonu fyrer sig/ og sagde þeim fyrer Okomna Hlute: Eñ sier i lage took hañ Joseph Afsijdes og hañs tvo Sonu/og blessade þa. Svo virdest mier Herrañ Christur giort hafe/þegar hañ alla reidu haf

de stiptad hid nyia Testamentū i Ralægid sina elskulegra Læresveina/ hvertа hañ skdañ giørde pra sier med somu Erendum til allra Þioода/ þa atte hñ po цna skduslu Rادagiørd a Krossenum vid sijna Elskulega Moodur og siñ Læresvein/ þañ er hañ elskade/ i hverre hñ heþrer tvo Nlute kiendt øllum þeim er hañ elska/ sem er/ hverneñ hønum eige epter ad fylgia: Nitt og añad/ ad hañ vilie þa alldrei yfergieþa/ sem under hñs Krosse standa.

Vilium vier þvi þyrst hugleida Mariu z. Johañs Dæme. 2. Þaug bless udu Ord/ er hañ til þeirra talade.

Eñ þu goode JEsu / uppliwk þu vorum Augum/ ad vier lærum þijnum Footsporum ad þylgia: Ahrær vor Niørtu/ svo vier mættum þitt Dygda-Dæme elska. Stiorna miñe Tungu/ ad þad eg tala/tale eg þier til Loþs/og þijnu Folke til Sælar-Sagns og Nota / þad Vænheyre myskunsamur Gud/ fyrer siñ Son JEsum/ Amen.

Eing-

Ingen Nrygd er svo sterk B. G. E. ad Polenmæde en hana ecke yfervinne/ einge en svo stoor/ad hana ecke veig semden yþergnæþe: Tiett er Polenmæd. en þeim sem viliugur lijdur/ og mikel er hans Vegsemd/ sem yfervinnur. Sæl er en hefur tvær Hendur til ad taka moot Sorgenne/ Trwna og Polenmædena: Vel sie þeim sem bædar kan wt ad breida til ad fadma ad sier Hormungena/ sem er þess Himneska Fødur Sendebode/ þa hun ad Garde geingur/og kysser svo a Guds Vønd med Packlæte. Hver, su Obærelegann Punga meined þier B. G. ad Hiarta þeirrar blessudu Mey iar og Moodur hafe þaþt ad bera/ þa hun sa sinn einka Son uppheingdann a Krossenum/ svo sem adra Bølvan / og hvad biturt Sverd hefur þreinkt sier i giegnum Sælu henar/ Luc: 2. Menn gieta vel til / ad þesse blessud JEsu Mooder haþe i Barnburdenum ecke svo stoora Pinning lided/ sem adrar Kvinn-

ur/

un/ hvar um̃ eingen kan̄ þo neitt vÿſt
ad ſeigia/ en̄ haꝼe þ vered/ þa ſÿneſt mi'
ad i Pÿnu heñar eingietens Sonar/ haf-
fe þad aptur golldeſt/ þar Holld aꝼ heñ-
ar Hollde/ og Bein af heñar Beinum/
er man allrar Myſkunar ſundurſlited.
Dæme þad ſierhvert Moodur Hiarta/
eda hver eirn er nockud ſnerter Rækt
ſiña Aſtvina/ hvad þad ſie ad horꝼa a
Afkvæme ſÿns Lÿꝼs ſvo illa wtleiked.
Nun ſier han̄ uppheingdan̄/ en̄ ꝼær hñ
þo ecke ofan̄teked: allsnaken̄/ og ma hñ
ei hylia: Albloodugan̄/ en̄ gietur han̄
ei afþerrad: Sardan̄/ en̄ ma ecke bin-
da hans Sar: Nun heyrer han̄ kvar-
tar um̃ Þorſta/ en̄ ma ei gieꝼa honum
ad drecka: Nun ſier han̄ med Galle og
Edike drycktiadan̄/ ſem i Vogguñe haꝼ-
de mylkt heñar Brioost/ en̄ ꝼær honum
hier ei ſvalad med Vatns Dropa einū/
þar han̄ kvelſt i þeſſum Loga. I einu
Orde ad ſeigia/ ſvo morg Ben/ ſem þar
hafa vered a JEſu bleſſudum Lÿka-
ma/ſvo morg Sorgar Pÿla heꝼur ꝼlog

ed i giegnum hennar Hiarta: Og svo
mørg Høgg og Pustur/sem hans bless-
ada Holld hafþa mared / svo margt
Sverd hefur giegnum stunged hennar
Sælu. Mikel var þesse Sorg Mariæ/
enn meire var hennar Hugprydde/hun stood
hia Krossenum/ seiger Historian. Hier
hefur hinn Myskunsame Gud dæsam-
lega auglyst/ hversu ad Guds Kraptur
er i Breiskum mættugur. Þegar Eli
heyrde ad Ørk DRottens var teken af
Philisteis/ 1. Sam. 4. og ad bæder
hans Syner voru i Hel slegner/þa vard
hønum svo miked umm/ad hann fiell apt-
ur af Stoolnum z Hælsbrotnade. Ecke
var þesse Harmur Mariæ minne/þar hin
sanna Guds Ørk/ i hverre ad byr oll
Fylling Guddomssens Lijkamlega/Col:
2. er hier af Ogudlegra Manna Hønd-
um nidurbroten a Krossens Alltare/og
þeim Olmu Hundum sem hann umkring-
du/Ps: 22.ad Nerfænge orden: Enn i
ollu þessu stendur Maria stødug/ og
vijkr ecke fra sijns Sonar Krosse. Þesse
er

er Kraptur hiña lifendu Orda Guds/ i hverium heilagur Ande verkar þramar/ eñ nockurs Mañs Skilningur kañ ad hyggia. Vm̃ Mariam stendur/ Luc. 2. Þegar JEsus sagde: Vyrtar mier ecke ad vera i þeim Hlutum sem myns Fodur eru? þa hafe hun geymt øll þesse Ord i sijnu Hiarta: og hefur hun sañlega ecke einasta þesse/ helldur øñur plei re geymt: Hun hefur mn eþa trwad/ ad hañ være Sonur hiñs hæsta/ Luc: 1. ad hañ skyllde endurleysa sitt Folk aþ þeirra Syndum/ Math: 1. ad Gud munde giefa hønũ Sæte sijns Fodur Davids/ og hañ skyllde rijkia i Hwse Jacobs ad eilijfu/ Luc. 1. Og þo heñe hafe nærsta Ollost vered/ med hveriu moote þad munde skie/ þa hefur þo heilagur Ande lifad i þessum Ordum/ sem vardveitt voru i Hiarta heñar/ og sañast þad hier/ ad Guds Ord sieu Lijf og Ande: Lijf eru þaug/ þvi ad Madureñ lifer ecke ad einusamañ Braude/ helldur aþ sierhveriu Orde/ sem þramgeingur

af

af Guds Mune/ Math: 4. Ande eru
þaug/ þui i þeim/ og ecke odruvijse ber
Guds Ande vorū Anda Vitne þar um̄/
ad vier sieum Guds Born/ Rom: 8. og
þ a þeñañ Hatt: Hver ed heyrer Guds
Ord og vardveiter þad/ hañ hefur eilijft
Lijf/ Luc. 17. Þesse eru þau Guds Ord/
sem vera eiga Lioos a þijnum Vegum z
Lampe Foota þiña/ Þs: 119. J Kross-
gaungune epter Christo / Barn Guds.
Huggunarfull voru þaug Ord/ er Ma-
ria heyrt hafde af Eingilsens Mune/
og af Mune Simeonis/ eñ ecke hefur
þu þærre Hugganer i Guds heilogu Or-
de/ eda Olivosare eñ þessar voru. Jeg
furda mig a Hundrads-Hofdingians
Andsvare (sem Von er a/ þui JEsus
þottest ecke sijka Tru fundeð hafa i
Jsrael) þar hañ sagde: Tala þu eitt
Ord/ og mun miñ Þioon heilbrygdur
verda/ Luc: 7. Og vier hofum svo morg
Ord heyrt/ ad vier skulum fagna z vera
glader/ þui vort Verdkaup sie nooglegt
a Himnum/ Math: 5. ad Mootlæte

F                    þess-

þessara Tijma sie ei verd þeirrar Dyrd-
ar/ sem vid oss mun openber verda i ei-
lijpu Lijfe/ Rom: 8. Ad Gud sie tiwr z
lœte aungvañ preistast yper Megn
pram/ 1. Cor: 10. Ad vier hopum pañ
Biskup/ sem ad sam-pijnast kañ vorum
Beikleika/ Heb: 5. Og po eru ecke vo-
rar sterkustu Hetiur svo oruggar i Mañ
raununum / svo sem ein ypergiepeñ og
munadarlaus Stulka / er hier stendur
under Krossenum. Hvad mun þessu
vallda? Mun ei pad/ ad vier vardveit-
um eige svo vel Guds Ord i Hiortum
vorum/ svo sem Maria/ ad vier kuñum
þar af Huggun ad hapa i Mootgang-
enum? Seig mier/ ep nockur ap Kong-
sens Biñdar-Moñum vœre vel til þijn/
munder þu ei Neolpeñ þykiast/ þott þier
nockud a moote bliese? Eñ þar er þo
ecke ad byggia uppa. Konungaña Þien
arar eru hia þeim eins og Reiknings-
Peningur/ Meñ lœta þa merkia svo
stoora Tolu/ sem Meñ siœlper vilia/ svo
Kongenum er i siœlps Vallde/ hvad lein

ge

ge edur hvad miked hañ vill lata epter
þeim/ sem frame fyrer hønum standa.
Miklu ødruvýſe er hin eilyfe Kiærleike
Guds Fødurs til ſyns eingietens Sonar/
i hveriū hañ hefur alla ſyna Velþockn-
an/ Math: 3. þvi hvers ſem vter bidiū
i hañs Nafne/ þad mun hañ veita oſſ/
Joh: 16. Eñ heyr þu Chriſteñ Madr/
hvad þeſſe Eingell hins mikla Rads
ſeiger/ er hañ bad fyrer ſynū Læreſvein-
um Gud ſiñ Fødur/ Joh. 17. Eg bid ecke
einaſta fyrer þeim / helldur og jafnvel
þeim/ ſē trwa munu a mig fyrer þeirra
Ord. Eñ ef þu þ ecke giorer ſyndugur
Madur/ og hepur eckert numed af þvi/
ſem þier hepur vered kiendt wt af Chri-
ſto og hañs Kroſſe. Seig mier/ hvada
Formæla villt þu þa hapa fyrer hañs
Vikar/ nær hñ verdur þier til-druckeñ?
Eda med hveriu villt þu Gud reidañ
blydka/ þegar hañ temur þitt lauslæta
Hollð med Kroſſens Vende? Hverta
Yferſøgn villt þu brwka fyrer hinum
kallda Daudans Kaleik/ þegar hñ verd-

ur þÿnum ſtiælpande Vorum boreñ?
Naþer þu ecke ad aß Guds Orde numed
hier til Trauſts og Trwar Eþlingar i
þeim ſkiouſtu Andarſiitrum. Mier kiem
ur i Hug hiñ gamle Socrates. Ein-
hveriu ſiñe beidde nockur aß hañs Kuñ-
ingium/ ad hañ villde ſkoda Barn ſitt/
og gieta til hvern Mañ þad hefde ad
geyma/ Hañ ſagde vid Barned: Tala
þu ſro eg ſiae þig. Eþ hiner Vitiuſtu
a medal vor/kuña ecke ad þeckia eirn ne-
ma aß Mælenu/ hverſu vilia Meñ þa
þa Gud ſienañ edur þeckiañ/nema i hñs
heilögu Orde? Þvi hañ heþur eingeñ
nockurn Tijma ſied/ ſa eingietne Son-
ur Fodurſens/ ſem er i hañs Skaute/
hañ heþur oſſ þad openberad/ Joh: 1.
Hverge nema i þvi Orde af Kroſſenum/
hvert ad er Heimſka þeim er þyrerþar-
aſt/ eñ oſſ ſem hoolpner verdum/ er þad
Kraptur Guds/ 1. Cor. 1. Þvi er mitt
Ræd/Chriſteñ Madur/ad a medañ þier
eñ þa ad Oſkum geingur/ og þu þiñur
eingeñ Miſſmiñde a Nögum þÿnum/ þ
þu

þu ſapner nockru af Guds Orde z þeim
heilogu Kienningum/ ſem af honū ſeig-
iaſt i Hiarta þitt/ og geimer þaug þar
med Mariu/ ſvo þad kuñe ad gagna þier
a hiñe vondu Tijd/ nær honum añad-
hvert þocknaſt/ ad þu ſkuler ſtanda und-
er hañs Kroſſe/ edur ganga epter hon-
um Veg allrar Veralldar/ til ad giallda
Gude hiña ſijdaſtu Skulld. Vier heyr
um ad under JEſu Kroſſe ſtendur hañs
Mooder og hañs Læreſveirn: Þeſſ var
oll Von/ ad þeir ſem Chriſto voru næ-
kvæmaſter i Elſkuñe/ þeir mundu eirn-
eñ honum beſt fylgia i Kvoleñe. Þañ-
eñ er Chriſti Elſku hattad/ ad hun vird
er eckert fyrer ſier/ uppa þad hun kuñe
ad vera ſem næſt Chriſto. Þeſſe er ſa
Kiærleike/ ſem ad er i JEſu Chriſto/
vid hvern ad Paulus fortekur ad ſig nock
ur Hlutur ſkilia ſkule/ hverke Lijf nie
Daude/ hverke Einglar nie Hofdingia
Dæme nie Vallðſtiettet/ hverke þad næ-
læga nie hid epterkomanda/ hverke Hæd
nie Dypt/ nie nockur oñur Skiepna/

Rom: 8. Ecke er þañeñ Heimsens Barna Vinatta: Þeir uñd medañ þeir mbatast/ þeir taka Rentu aþ Vinattu siñe/ svo sem af ødru Giallde / þeirra Vinskapur er Siooþarendum lijkur/þeir ed aka Seglunum epter Vedrenu / þeir herma epter Sumarþuglunum/ er leita til hiña kølldu Landa a Vorum/ edur vakna upp þegar hitna tekur/ eñ under Vetureñ leggiast þeir i Dvøl/edur þlyia a burtu/ þvi ecke eru ofmarger Husai þegar David er wtlægur/edur Eliphas þegar Job er Kaunum sleigeñ: Sa sm̄ leitar epter þeim i hvoriu Hwse/hñ dreg ur sialþañ sig a Tæklar og þiskar i Lopt-enu/þar þyrer er Vinskapur þssa Heims Ovinur Guds/ Jacob: 4. hver ed skip-ad heþur fyrer Postulans Muñ/ad græ ta med Grætendum z fagna med Fagn-endum / Rom: 12. Framar þessu høfum vier aþ Dæme Mariæ z Johañ is ægiæta Huggun/þar vor Herra seig-er/ Math: 12. Ad sa sem giører Vil-ia sijns Fødur/hañ sie hañs Mooder z

hañs

hañs Syster og hañs Brooder/og Luc: 14. Ad hver sem vill vera hañs Lære-sveirn/ skule taka siñ Kross uppa sig og fylgia honum epter: Þvi mæ ad riettu seigia/ ad Christeleg Kyrkia Guds/sem er Safnadur Trwadra hier a Jorduñe/ hun sie hañs Mooder/ og aller Þeir/sem þar iñe Fødursens Vilia giora/ JEsu Christi Lærésveinar. Þesse JEsu Mod er stendur under hañs Krosse hier i Hei-me/og kvelst þunglega/hun er su Kviña Sooluñe Jklædd/ sem Tungled under Footum tredur/ Hun hlioodar aþ Jood-sott z kvelst svo sem i Barnburde/ Apoc. 12. JEsu Mooder hefur audþeckt verd ed af hañs Krosse/þar eingeñ var hon-um svo nakvæm: Hañs Christne er og audkiend af sama Merke/þvi hun mun slyka og græta/þar Heimureñ mun fag-na/Joh: 16. Svo sem hefiar Hofud er/svo er og sialfz hun. Hañs Ryke var ecke aþ þessu Heime/svo er z ecke heñar Epterlæte helldur i Verolldu þessare. Þa vier heyrum David oþsooktañ/Jere-
 miam

miam ſleigeñ/Johannem apho þdadañ/ Stephanum grÿttañ/ Pal Halshogg-veñ/ Petrum Kroſſpeſtañ/ og JEſum Chriſtum/ ſem er Sapnadarens Hoþ-ud/ ſvo ſem adra Bolvan uppheingdañ/ þa þeinkiuin ecke ad hñs Andlegur Lÿ-kame ſie vanſkapadur/ ſvo ad Limerner meige añañ veg hættader vera eñ ſialpt Hofuded er. Meinum eige ad oſſ hlÿde ad bada i Rooſum/ þar ſem hañ ſtegleſt a Kroſſenum. Sie JEſus i þier mynd-adur/ ſvo þu ſiert hañs Andleg Mood-er/ þa ſkamaſt þÿn ad fagna med Heim-enum/ þar hañs Mooder ſtendur under Kroſſenum. Ecke einaſta hañs Hoþud var i ſundur ſtunged/ helldur allur hañs Lÿkame pullur ap Benium: ſvo byr-iar og þeim Andlega Lÿkama ad ve-ra/ añars kañ hañ ecke vel ad eiga vid Hofuded. Hape Gud DRotteñ ſkeinkt pullt a fyrer hañ/ ſvo vit ad þier byriar ad ſmacka þar a med. Þegar hñ drack hiñ pleitefulla Reide Kaleik Guds/ þa drack hañ þier til ſvo ſem Petre/ er hñ

ſagde:

ſagde: Þu munt og drecka miñ Kaleik. Ef hañ et þiñ Nerta/ þa munt þu ecke ſkirraſt vid hañs Adryckiu ad hallda.

Mooder þeirra Zebedei Sona bad Herrañ uñ/ad Syner heñ" mættu ſitia i hñs Rijke/ añar a hægre Hond hon-um/eñ añar a vinſtre. Nun viſſe ecke hvers hun bad/ Sa bleſſade Herra giør de betur til Sonar heñar/ eñ hun kuñe ad Oſka. Eingeñ Joab aþ David/ eingeñ Mardochæus af Aſſvero/ eingeñ Daniel af Nebuchadnezar/ eingeñ Jo-ſeph aþ Pharao/ kañ ſlijkañ Sooma ad þiggia/ ſvo ſem Johañes hier/ þar hñ ſtood under JEſu Kroſſe. Þeſſe var-ſa Læreſveirn ſem JEſus elſkade/ ſañ-lega þeſſ vegna/ ad hañ hefur JEſum elſkad/ ei ſijdur eñ hver hiña hañs Læ-reſveina. Eñ ſeig mier Chriſteñ Mad ur/ hvern heþur JEſus meir elſkad eñ þig/þa þu hañ hatader? Hvern byriade þier meir ad elſka eñ þañ/ ſem gaf ſitt Lijf wt þyrer þig? Hvar er hañs Elſka ef þu hatar hañs Kroſſ? Þad var

ei ad undra ad vor Endurlausnare spur-
de Petrum prisvarsiñum ad/ hvert hañ
elskade sig/ Joh: 21. adur eñ hñ teikn-
ade med hverium Dauda hañ skyllde
Gud dyrka/ Math: 20. Pvi svo sem
Gulled reinest i Ofnenum / svo verdur
Elskañ til JEsum Christum proofud
i Krossburdenum. Pu skallt ei hugsa
ad pad sie noog ad elska Gud svo sem
Nræsnareñ tilbidur fyrer Borde hiñs
rijka. Gude er eingeñ Pocknan par i/
ad pu hafer Matar-Ast eina a honum:
villt pu lata sia hvad kiærañ pu hefur
Christum fyrer allt pad hañ leid piña
vegna. Peir sem ecke gatu laped af
Vatnenu standande/ peim skipade Ge-
deon heim aptur/ Judic: 7. Peir nutu
og ei pessarar Æru ad hroosa Sigre yf-
er Madianitum: peir sem ei vilia drecka
af Læknum med Christo/ peirra Nof-
ud verdur ecke helldur upphafed med
honum: sa sem eige vill bera hñs Kross
med honum/ hañ er ecke hañs Lære-
sveirn/ Luc: 14. Sa sem ecke er hañs
Lære-

Læresveirn/ hañ er hañs ecke verdugur/ Sa sem ecke er hañs verdugur/ itigeingur ecke i hañs Dÿrd/ hñ sem ei iñgeingur i hñs Dÿrd/ honum er i hinum ytstu Myrkrum vist ætlud: Þvi dæme eg hier ap/ ad sa sem ecke vill lÿdiast honum i Normungeñe/ hañ verdur wtelokadur fra hañs Samneyte i Dÿrdeñe. Jeg veit ad fæer læta miked yper þvi/ ad Johañes stood hia vid sijns Herra Kross/ sierdeilis þeir ed ecke æger ad sia/ þoott Maunganñ illa lÿde/og ecke vera i Augum añara Mootlæte/ ef þad snerter ecke sialfa þa. Margur kañ vera sa ed þeinker/eg villde ecke sÿdur eñ Johañes hafa fylgt mÿnum Herra i siñ Kvalastad/ eñ þad mun añadhvert sa seigia meiga/sem lÿted elskar Christum/edur hañ/er elskar svo heitt sem Johañes. Sa er lÿtid elskar/ maa diarft um tala/þvi honum er ecke sært/ nema þad a sialfum liggur/ eñ þañ er heitt elskar/ dregur Elskañ ecke einasta under Christi Kross/helldur uppa Krosseñ med Christo. Nu veit eg

Brad-

Bræđur mÿner/ ad einngeñ vill i þvi fundeñ vera/ ad hañ Christo ecke uñe/ hver ed ecke elskade sitt Lijf allt i Dauđañ vor vegna/ hvar fyrer Paulus seiger: Bolvadur sie sa/ sem ecke elskar DRottiñ vorn JEsum Christum/ 1. Cor: 16. Eñ ef þu seigest elska hañ Christeñ Madur/ þa sijn þad i Verkunum/ er þu talar med Muñenum. Christi Kross er ecke langt i burtu/ eg vil seigia ad hañ liggur fyrer Footum þier/ eñ þu ert svo blindadur a Augunum/ ad þu sier hañ ecke/ og þijnar Hendur svo latar/ ad þu nenner ecke ad hefia hñ þier a Heedar: Þu tredur þ under Footunū/ sem ætte ad vera Corona þijns Høfuds/ eñ latur þad starta a Høfde þier/ sem i Skarne a ad liggia. Fiñur þu ecke eitt Løgmaal i þijnum Lijmum/ sem þig tekur fangeñ under Syndareñar Løgmaal/ Rom: 7. Kieñer þu eige til Holldsens Drooa/ hvert ed girnest i mooti Andanum? Er hiñ gamle Adam svo svæfdur i þier/ ad hañ bröltst ecke uñ? Jeg vanntreyste

